

U.S. Customs and Border Protection

RAFRÆNT KERFI FYRIR HEIMILD TIL FERÐALAGA

Sama hver áfangastaður þinn í Bandaríkjunum er, komdu fyrst við hjá ESTA

# GAGNABLAÐ

**Allir ferðalangar með undanþágu frá áritun (Visa Waiver Program - VWP) þurfa að fá ferðaheimild í gegnum rafræna kerfið fyrir ferðaheimildir (ESTA) áður en ferðast er til BNA með VWP. ESTA er aðgengilegt á netinu á *https://esta.cbp.dhs.gov* fyrir ríkisborgara og þegna VWP landa (sem þurfa ekki áritun). VWP gerir gestum frá þátttökuþjóðum kleift að ferðast til BNA vegna vinnu eða afþreyingar í 90 daga eða færri án þess að þurfa vegabréfsáritun. ESTA eykur öryggi VWP og hefur gert ríkisstjórn BNA kleift að auka við fjölda meðlima í áætluninni.**

## ALMENNAR UPPLÝSINGAR UM ESTA

**Hvað er rafræna kerfið fyrir ferðaheimildir (ESTA)?**
ESTA er sjálfvirkt kerfi sem er notað til að ákvarða hæfni gesta til að ferðast til Bandaríkjanna með VWP.

**Af hverju þarf ferðaheimild gegnum ESTA fyrir VWP ferðalanga?**
Bandarísk löggjöf krafðist þess að heimavarnaráðuneytið setti upp rafrænt heimildakerfi fyrir ferðalaga og aðrar leiðir til að auka öryggi VWP. ESTA bætir við öryggisþætti sem gerir heimavarnaráðuneytinu kleift að ákvarða, fyrir ferðalagið, hvort einstaklingur sé hæfur til að ferðast til Bandaríkjanna með VWP og hvort ferðin feli í sér hættu fyrir löggreglu eða öryggi.

**Hver þarf að leggja fram ESTA umsókn?**
Allir þegnar og borgara VWP þátttökuþjóða sem hyggjast ferðast til Bandaríkjanna með flugi eða skemmtiferðaskipi vegna viðskipta eða skemmtunar í 90 daga eða færri með VWP þurfa heimild í gegnum ESTA. Hæfilegur tími ætti að líða milli heimsókna til að staðfesta að þú búir ekki í Bandaríkjunum. Ef ferðalangur áætlar að millilenda í Bandaríkjunum á leið til annars lands, þarf samt heimild gegnum ESTA.

## HVERNIG SÆKJA SKAL UM ESTA

**Hvernig sæki ég um ferðaheimild til Bandaríkjanna?**
Til að sækja um ESTA heimild skaltu fara á opinberu ríkisvefsíðuna hjá *https://esta.cbp.dhs.gov.* Svaraðu öllum nauðsynlegum spurningum og sendu inn umsókn þína fyrir ferðaheimild.

**Get ég sótt um fyrir hóp umsækjenda í einu?**
Já. Þú getur sent inn umsóknir fyrir hóp allt að 50 einstaklinga í einu. Til að sækja um fyrir hóp, sendu inn upphaflegu umsóknina og veldu einn af eftirfarandi möguleikum áður en greitt er: **„Bæta við nýrri umsókn“** eða **„Bæta við ógreiddri umsókn.“** Ljúktu síðan við umsókn fyrir hvern meðlim hópsins með því að slá inn helstu upplýsingar og svara nauðsynlegum spurningum. Þegar þú sendir inn allan hópinn, er auðkennisnúmer hópsins búið til og sent með tölvupósti á uppgefið netfang. Þú þarft auðkennisnúmer hópsins til að fá aðgang að umsóknum hópsins, athuga stöðu, skoða kvittun og/eða framkvæma greiðslu.

**Þarf ég að sækja um ESTA fyrir ólögráða barn mitt?**
Já, börn með eða án fylgdar (óháð aldri) þurfa sína eigin ESTA heimild áður en þau ferðast til Bandaríkjanna sem þegnar lands sem þarf ekki áritun.

**Hvaða upplýsingar þarf ferðamaður að gefa upp til að fylla út umsóknareyðublað heimildar?**
Hver umsókn þarf að innihalda, á ensku, ítarupplýsingar, þar á meðal nafn, fæðingardag og vegabréfsupplýsingar. Umsækjandi þarf líka að svara VWP spurningum um hæfi varðandi smitandi sjúkdóma, handtökur og sakfellingar fyrir ákveðin afbrot, fyrri sögu af sviptingu áritunar eða brottvísun ásamt öðrum spurningum. Í hópumsóknum er hver ferðamaður ábyrgur fyrir sannleiksgildi og nákvæmni sinnar eigin umsóknar. Ferðamaðurinn eða umsækjandi mun einnig þurfa kreditkortaupplýsingar til að greiða tengd umsóknargjöld til að klára ESTA umsóknina.

**Getur einhver annar sótt um fyrir mig ef ég hef ekki aðgang að internetinu?**
Já, vinur, ættingi, starfsmaður ferðaskrifstofu eða annar þriðji aðili má fylla út umsókn fyrir þína hönd. Þriðji aðili má einnig greiða umsóknargjöld fyrir hönd ferðamanns eða hóps ferðalanga. Ferðamaðurinn er hins vegar ábyrgur fyrir sannleiksgildi og nákvæmni allra upplýsinga sem sendar eru fyrir hans hönd.

**Hversu löngu fyrir ferð mína þarf ég að sækja um ferðaheimild?**
Við mælum með að umsóknir fyrir ferðaheimildir séu sendar inn strax við skipulag ferðarinnar eða eins snemma og kostur er, ekki síðar en 72 tímum fyrir ferðalagið. VWP ferðalangar þurfa ekki að hafa sérstaka ástæðu til að ferðast til Bandaríkjanna áður en þeir sækja um ESTA.

**Fæ ég tilkynningu eftir að ég hef lagt inn umsókn mína?**
Um leið og einstaklingur eða hópur hefur verið samþykktur, er tölvupóstur ásamt númeri umsóknar eða auðkenni hóps sendur. Stöðu umsóknar verður að skoða á vefsíðunni.

**Hvaða hugsanlegu svör gæti ég fengið?**
*Heimild samþykkt:* Ferðalag heimilað.
*Ferðalag ekki heimilað:* Ferðamaður verður að fá tímabundna áritun hjá bandarísku sendiráði eða ræðismanni áður en ferðast er til Bandaríkjanna.
*Heimild bíður staðfestingar:* Ferðamaður verður að skoða vefsíðu ESTA fyrir uppfærslur. Það gæti tekið allt að 72 tíma að fá lokasvar.

**Hvað ef ein umsókn í hópi fær stöðuna „bíður staðfestingar“? Mun það valda seinkun á úrvinnslu annarra umsókna í hópnum?**
Nei, ef það er „bíður staðfestingar“ staða á einhverri umsókn í hópi, mun það ekki seinka úrvinnslu annarra umsókna. Hinsvegar er ekki hægt að sjá stöðu annarra umsækjenda í hópnum á vefsíðunni þar til allar umsóknir í vinnslu í hópnum eru metnar. Kvittunin mun ekki sýna heildargjald fyrr en allar umsóknir sýna stöðuna samþykkt eða hafnað.

**Hve lengi er ferðaheimild mín gild?**
Ferðaheimildir eru vanalega gildar í tvö ár eða þar til vegabréf þitt rennur út, hvort sem verður fyrst. ESTA gefur upp gildistíma þegar umsókn er samþykkt. Gestur má ferðast til Bandaríkjanna mörgum sinnum á gildistímanum án þess að þurfa að sækja um nýja ESTA heimild.

**Hvenær þar ég að sækja um nýtt ESTA?**
Krafist er nýrrar ferðaheimildar í gegnum ESTA þegar:
- Ferðalangur fær nýtt vegabréf,
- Ferðalangur breytir nafni sínu,



U.S. Customs and Border Protection

RAFRÆNT KERFI FYRIR HEIMILD TIL FERÐALAGA
Sama hver áfangastaður þinn í Bandaríkjunum er, komdu fyrst við hjá ESTA

# GAGNABLAÐ

- Ferðalangur skiptir um kyn,
- Ríkisfang ferðalangs breytist,
- Forsendur hafa breyst fyrir fyrri svörum ferðalangs við spurningum á ESTA umsókn sem þarf að svara með „já" eða „nei", eða
- Ferðaheimild þín hefur runnið út. Viðeigandi gjald verður innheimt fyrir hverja nýja umsókn sem send er inn.

**Ef ég hef fengið samþykki gegnum ESTA til að ferðast til Bandaríkjanna, þýðir það að ég get komist inn í landið?**
Ekki endilega. Samþykki gefur ferðamanni aðeins heimild til að fara um borð í flugvél eða skip til að ferðast til Bandaríkjanna án áritunar. Í öllum tilfellum er það bandaríski tollurinn og landamæraverðir sem ákvarða réttmæti inngöngu við landamærahlið eða tollafgreiðslur.

**Geta VWP ferðalangar þurft að sýna útprentað eintak af samþykktri ESTA umsókn sinni á flugvellinum?**
Nei. Heimavarnaráðuneytið kemur upplýsingum um stöðu ferðalangs til flutningsaðila. Heimavarnaráðuneytið mælir hinsvegar með að ferðamenn prenti út ESTA umsókn sína til að varðveita númer ESTA umsóknar sinnar.

**Ég gleymdi númeri ESTA umsóknar minnar. Hvernig get ég skráð mig aftur inn í kerfið til að uppfæra upplýsingar mínar eða athuga stöðu mína?**
Um leið og umsókn einstaklings hefur verið samþykkt, er tölvupóstur ásamt umsóknarnúmeri sendur. Ef ferðalangur týnir, gleymir eða hefur ekki að aðgang að umsóknarnúmeri sínu, getur hann eða hún fengið umsóknarnúmerið í gegnum ESTA vefsíðuna með því að slá inn fæðingardag umsóknaraðila, vegabréfsnúmer og útgáfuland vegabréfs, útgáfudag vegabréfs og lokadag vegabréfs.

**Hvað ef ég týni auðkennisnúmeri hóps?**
Kerfið leyfir umsækjanda að biðja um auðkennisnúmer hóps, sem er sent á netfangið sem gefið var upp þegar hópurinn var búinn til.

**ESTA GJÖLD**
**Er tekið gjald fyrir að fá ferðaheimild?**
Já. Gjaldið er 14 Bandaríkjadalir. Gjaldið er tvískipt:
*Úrvinnslugjald* - Allir umsækjendur fyrir rafrænni ferðaheimild eru rukkaðir um úrvinnslu hverrar sendrar umsóknar. Gjaldið er 4 dalir.
*Heimildargjald*: Ef umsókn þín er samþykkt og þú færð heimild til að ferðast til Bandaríkjanna gegnum undanþágu frá áritun, bætist við 10 dala úttekt á kreditkort þitt. Ef rafrænni ferðaheimild þinni er hafnað, þarft þú aðeins að greiða fyrir úrvinnslu umsóknar þinnar.
Heimavarnaráðuneytið ber ekki ábyrgð á aukagjöldum sem gætu verið innheimt af greiðslukortafyrirtæki þínu fyrir færsluna.

**Hvernig borga ég fyrir ferðaheimild mína?**
Allar greiðslur fyrir ESTA umsóknir þarf að gera með kreditkorti/debetkorti eða PayPal. ESTA kerfið tekur nú aðeins við eftirfarandi kredit- og debetkortum: MasterCard, VISA, American Express, JCB Kort, Diners Club og Discover. Þriðji aðili, svo sem vinur, ættingi eða fulltrúi ferðaskrifstofu má greiða tengd gjöld fyrir umsókn einstaklings eða hóps. Nafn á greiðslukorti þarf ekki að passa við nafn ferðalangs eða hóps. Umsókni verða ekki sendar til úrvinnslu fyrr en allar greiðsluupplýsingar eru mótteknar. Við höldum áfram að skoða aðra greiðslumöguleika fyrir framtíðina.

**Ég hef séð aðrar vefsíður sem bjóðast til að sækja um fyrir mig. Hjálpar þetta mér við að fá heimild mína fyrr?**
Nei. Notkun á einkaþjónustu til að sækja um ferðaheimild gegnum ESTA mun ekki hraða samþykkt. Vefsíður þriðja aðila sem veita upplýsingar um ESTA og senda inn ESTA umsóknir fyrir VWP ferðalanga eru ekki studdar af, tengdar við eða á neinn hátt í samstarfi við heimavarnaráðuneytið eða ríkisstjórn BNA.

**Er þessi vefsíða örugg og persónuleg?**
Já. Vefsíðunni er stýrt af ríkisstjórn Bandaríkjanna og nýtir tækni sem hindrar óheimilan aðgang að skráðum og skoðuðum upplýsingum. Upplýsingar sem umsækjendur senda í gegnum vefsíðu ESTA falla undir sömu ströngu skilyrði og hefur verið komið á fót fyrir svipuð eftirlitskerfi með ferðalöngum eins og bandarísk lög og reglugerðir segja til um, þar á meðal en ekki eingöngu varðandi lög um meðferð alríkisupplýsinga. Aðgangur að slíkum upplýsingum er aðeins leyfður þeim sem þurfa á þeim að halda í faglegum tilgangi.

**ESTA OG I-94W**
**Sem VWP ferðalangur, þarf ég ESTA heimild til að komast inn í Bandaríkin við landamærahlið á landi?**
Á þessum tíma er ekkert skilyrði fyrir ESTA til að fá inngöngu í Bandaríkin gegnum landamærahlið á landi. Sem hluti af inntökuferli þegar farið er gegnum land, þarft þú að fylla út I-94W eyðublað og borga viðeigandi 6 dala gjald. Heimavarnaráðuneytið er að vinna í reglugerðarbreytingum sem myndu innleiða ESTA skilyrði við landamærahlið á landi í framtíðinni.

**ESTA HAFNANIR**
**Hvað ætti ég að gera ef ég fæ ekki ferðaheimild?**
Ef umsókn fyrir ferðaheimild er hafnað og ferðalangurinn vill ferðast til Bandaríkjanna, verður hann eða hún að sækja um áritun hjá bandarísku sendiráði eða ræðismanni. Fyrir frekari upplýsingar um fyrirkomulag umsókna um áritun, vinsamlega skoðaðu *www.travel.state.gov.*

**Hvað ef einn eða fleiri ferðalangar í hópumsókn fá ekki heimild til ferðalaga?**
Umsókn(um) sem var hafnað hafa ekki áhrif á stöðu annarra meðlima hópsins.

**Ég er með nýja og gilda áritun. Verð ég einnig að sækja um ferðaheimild gegnum ESTA?**
Einstaklingar með gildar B1, B2 eða B1/B2 áritanir þurfa ekki að sækja um ferðaheimild gegnum ESTA.

**Má ég sækja um aftur ef ég fæ ekki ferðaheimild?**
Þú getur sótt um aftur ef að fyrrum aðstæður þínar hafa breyst.

**Í STUTTU MÁLI**
**Hver:** Þegnar og borgarar VWP landa sem
**Hvað:** Heimild til að ferðast til BNA með VWP
**Hvar:** *https://esta.cbp.dhs.gov*
**Verð:** 4 dalir úrvinnslugjald, 10 dalir heimildargjald
**Nánari upplýsingar:** *www.cbp.gov/esta*

Nánari upplýsingar: www.cbp.gov/esta

CBP Publication Number 0839-1218 ESTA factsheet redesign